# SKÝRSLA

## UM ÍSLENZK BINDINDISFJELÖG

### FRÁ VORDÖGUM 1845 TIL VORDAGA 1846.

---

Í 8. ári Fjölnis bls. 77—78 má sjá nöfn skólapilta þeirra, er þá voru komnir í bindindisfjelag; síðan hafa þessir við bæzt:

*Hannes Kr. St. Finsen*, úr Reykjavík,
*Jón Snæbjarnarson*, úr Viðey,
*Árni Thorsteinson*, frá Stapa í Snæfellsness-sýslu,
*Magnús Thorlacíus*, frá Hrafnagili í Eyjafjarðar-sýslu,
*Páll Friðrik Vídalín*, frá Víðidalstungu í Húnavatnssýslu,
*Björn Pjetursson*, frá Berufirði í syðri Múlasýslu,
*Hermanníus Elías Jónsson*, frá Stykkishólmi í Snæfellsness-sýslu,
*Jón Þorvarðsson*, frá Miðdal í Árness-sýslu,
*Karl Andersen*, úr Reykjavík,
*Jakob Benidiktsson*, frá Glaumbæ í Skagafjarðarsýslu,
*Sigurður Lárentíus Jónasson*, frá Guðlaugsstöðum í Húnavatnssýslu,
*Sigmundur Pálsson*, frá Rjettarholti í Skagafjarðarsýslu,
*Stefán Thórarensen*, frá Hraungerði í Árness-sýslu,
*Arnljótur Ólafsson*, frá Auðúlfsstöðum í Húnavatnssýslu,
*Brynjólfur Jónsson*, frá Hruna í Árness-sýslu;

munu þeir nú mjög fáir af skólapiltum, er ekki sjeu komnir í fjelag vort.

Í sama ári Fjölnis, bls. 78, er þess getið, að auk skólapilta hafi nokkrir gengið í fjelag þeirra; en vegna þess, að skólapiltar vilja helzt vera í fjelagi sjer, stofnaði Jón Árnason, stúdent, á Eyvindarstöðum ásamt tveimur öðrum, er áður höfðu gjörzt bindindismenn, bindindisfjelag í haust á Álptanesi; eru gengnir í það þessir menn:

*Benidikt Sveinsson*, kennslupiltur á Eyvindarstöðum frá Mýrum í Skaptafellssýslu,
*Stefán Stefánsson*, silfursmiður í Sviðholti,
*Loptur Pálsson*, vinnupiltur á sama bæ,
*Guðmundur Ísaksson*, vinnumaður á Bessastöðum.
*Jón Jónsson*, tómthússmaður á Kasthúsum.

Síðan áttu þeir fund með sjer 9. dag nóvembermánaðar, og kusu sjer forstöðumann, stúdent Jón Árnason; vonum vjer, að það fjelag muni brátt aukast, þó margir spyrni í móti, og það sumir hverjir, er sízt skyldu, og mestu ráða um.

Í Fjölni í fyrra, blss. 79—81, er sagt frá bindindisfjelagi því, er skólapiltur Eiríkur Jónsson frá Borg í Hornafirði, hafði stofnað þar eystra; voru þá gengnir í það fjelag 42. Með póstskipinu núna höfum vjer fengið skýrslu frá honum um ástand fjelags þess; þar segir svo: "Skipulagið á bindindisfjelaginu í þeim þremur sveitum, Lóni, Nesjum og Mýrum, er hið sama, og sagt er í skýrslu þeirri, er jeg sendi yður í fyrra. Í sumar, 11. dag ágúst-mánaðar, áttum vjer fund með oss bindindismenn; var þá sjer í lagi rætt um, hvort konur bindindismanna skyldu vera undir sömu lögum, sem þeir, eða ekki; kom oss öllum ásamt um, að svo skyldi vera; en fleiri voru þeir, er engin nauðsyn þótti til bera, að konur rituðu nöfn sín á nafnaskrárnar. Á hinu næstliðna og því nýbyrjaða ári hefur fjelagið talsvert aukizt; og hafa þeir mest að því unnið, sjera Björn og Stefán hreppstjóri á Árnanesi. Áður enn jeg fór að heiman, sendi sjera Björn mjer nöfn þeirra, sem ei voru (og eru líkast ei enn)

gengnir í fjelagið í sókn hans; voru þeir alls 11 af fermdum mönnum, flestir á sextugs og sjötugs aldri; í hinum sveitunum er munurinn minni; en góða von höfum vjer um, að bindindi nái þar fullum sigri að lokum, og það áður enn langt um líður. Þessir hafa bætzt við í fjelagið:

## Í Lónssveit:

*Jón Markúss-son*, bóndi á Eskifelli,
*Gísli Teitsson*, vinnumaður á Hlíð,
*Gísli Markúss-son*, bóndi á Svínhólum,
*Sigmundur Ásmundsson*, bóndi á Bæ,
*Pjetur Pjetursson*, bóndi á sama bæ,
*Eiríkur Steinmóðsson*, bóndi á s. b.,
*Sigurður Magnúss-son*, bóndi á s. b.,
*Jón Jónsson*, yngispiltur á Hraunkoti,
*Ketill Jónsson*, vinnumaður á Firði,
*Jón Bjarnason*, yngispiltur á Valaseli,
*Einar Jónsson*, yngispiltur á sama bæ,
*Guðmundur Magnúss-son*, yngispiltur á Þórisdal,
*Hallur Jónsson*, vinnumaður á Reyðará.

## Í Bjarnaness-sókn:

*Páll M. Thórarensen*, prófastur á Bjarnanesi,
*Árni Jónsson*, bóndi á Svínafelli,
*Sigmundur Jónsson*, bóndi á Fornustekkum,
*Jón Arngrímsson*, vinnumaður á Árnanesi.

## Í Einholtssókn:

*Sigmundur Pálsson*, bóndi á Flatey,
*Sigurður Sigurðsson*, bóndi á sama bæ,
*Gissur Jónsson*, bóndi á s. b.,
*Hálfdán Jónsson*, bóndi á s. b.,
*Þorsteinn Ketilsson*, fyrirvinna á Eskey,
*Jón Eiríksson*, bóndi á Hólmi,
*Brynjólfur Jónsson*, unglingspiltur á s. b.,

*Jón Árnason*, bóndi á Hömrum,
*Jón Magnúss-son*, bóndi á Einholti,
*Runólfur Jónsson*, bóndi á Holtum,
*Sigurður Einarsson*, bóndi á s. b.,
*Ketill Jónsson*, vinnumaður á s. b.,
*Eiríkur Þorvaldsson*, ljettapiltur á s. b.,
*Jón Jónsson*, bóndi á Holtaseli,
*Jón Eiríksson*, bóndi á Raufarbergi,
*Gissur Sigurðsson*, bóndi á Vindborði,
*Jón Jónsson*, unglingspiltur á Borg,
*Árni Magnúss-son*, vinnumaður á s. b.,
*Jón Jónsson*, vinnupiltur á s. b.

Auk þessara, hafa þeir sjera Þorsteinn Einarsson, aðstoðarprestur á Kálfafelli í Suðursveit, og sjera Magnús Jónsson Nordal, prestur á Sandfelli í Öræfum gengið í lög með oss, og gjörzt forgöngumenn í því, að stofna bindindisfjelög i sóknum sínum. Hafa þessir gengið í fjelag þeirra.

## Í Suðursveit:

*Þorsteinn Einarsson*, aðstoðarprestur á Kálfafelli,
*Jón Þórðarson*, bóndi á Kálfafelli innra,
*Þórður Steinsson*, bóndi á s. b.,
*Steinn Þórðarson*, unglingspiltur á s. b.,
*Björn Þórðarson*, unglingspiltur á s. b.,
*Árni Arngrímsson*, bóndi á Skálafelli,
*Bjarni Eiríksson*, bóndi á s. b.,
*Steingrímur Jónsson*, bóndi á Gerði.

## Í Öræfum:

*Magnús Jónsson Nordal*, prestur á Sandfelli,
*Einar Pálsson*, bóndi á Hofi,
*Jón Guðmundsson*, bóndi á s. b.,
*Árni Þorvarðsson*, bóndi á s. b.,
*Jón Þorvarðsson*, bóndi á s. b.,
*Sveinn Þórarinsson*, bóndi á s. b.;

*konur þessara sjö hafa og gengið í fjelagið og ritað nöfn sín á nafnaskrána, og að auk þrjár stúlkur ógiptar;*
*Vigfús Einarsson*, vinnumaður á Hofi,
*Páll Einarsson*, vinnumaður á s. b.,
*Árni Þórarinsson*, vinnumaður á s. b.

Í Norður-Múlasýslu hafa árið sem leið verið stofnuð bindindisfjelög; en vjer höfum enga skýrslu fengið um þau fjelög, og getum því eigi sagt, hvernig þeim fjelögum er fyrir komið, eða hverjir eru forstöðumenn þeirra; vjer höfum einungis fengið nöfn þeirra, er gjörzt hafa bindindismenn, og eru þeir þessir:

### Í Valþjófsstaðasókn:

*Stefán Árnason*, prófastur á Valþjófsstað,
*Guttormur Vigfúss-son*, stúdent á Arnheiðarstöðum,
*Þorsteinn Jónsson*, bóndi á Brekkugerði,
*Árnibjörn Stefánsson*, söðlasmiður á Geitagerði,
*Sveinn Pálsson*, hreppstjóri á Bessastöðum,
*Pjetur Pálsson*, bóndi á Þorgerðarstöðum,
*Magnús Pálsson*, bóndi á Arnaldsstöðum,
*Sigfús Jónsson*, bóndi á Langhúsum,
*Jón Sigfúss-son*, yngismaður á s. b.,
*Einar Sigfúss-son*, yngismaður á s. b.,
*Guðmundur Sigfúss-son*, yngispiltur á s. b.,
*Sigfús Sigfúss-son*, yngispiltur, á s. b.,
*Jón Pálsson*, bóndi á Kleif,
*Andreas Kerúlf*, bókbindari á Melum,
*Erlendur Þorvarðsson*, bóndi á Brekkugerðisstöðum,
*Sölfi Þórarinsson*, yngispiltur á Víðivallagerði,
*Guðmundur Þórarinsson*, yngispiltur á s. b.,
*Jón Einarsson*, ráðsmaður á Víðivöllum ytri,
*Jón Einarsson*, unglingspiltur á Egilsstöðum,
*Níels Sigurðsson*, vinnumaður á Víðivöllum ytri,
*Oddur Jónsson*, unglingspiltur á Kleif,
*Jónas Guðmundsson*, yngismaður á Þuríðarstöðum,

*Jón Ormsson*, bóndi á Brekku,
*Guðmundur Jónsson*, yngispiltur á Þorgerðarstöðum,
*Eyjólfur Magnúss-son*, yngispiltur á Arnaldsstöðum,
*Benidikt Gunnarsson*, smiður á Valþjófsstað,
*Halli Snjólfsson*, yngispiltur á Víðivöllum ytri,
*Guðmundur Þorsteinsson*, yngismaður á Glúmsstöðum,
*Guðmundur Rafnsson*, vinnumaður á s. b.,
*Magnús Jónsson*, yngispiltur á Brekku,
*Jón Finnbogason*, vinnumaður á Valþjófsstað,
*Sigfús Stefánsson*, yngismaður á s. b.,
*Kristján Þorvaldsson*, vinnumaður á s. b.,
*Vigfús Þorsteinsson*, vinnumaður á s. b.,
*Þorbergur Jónsson*, yngispiltur á Víðivöllum ytri,
*Guðmundur Eyjólfsson*, yngispiltur á Hóli,
*Eyjólfur Jónsson*, bóndi á s. b.,
*Pjetur Sveinsson*, yngismaður á Bessastöðum,
*Björn Bjarnarson*, vinnumaður á Glúmsstöðum,
*Ólafur Pjetursson*, vinnumaður á Arnheiðarstöðum,
*Guðmundur Einarsson*, bóndi á Þuríðarstöðum,
*Páll Einarsson*, yngispiltur á Egilsstöðum,
*H. Eyjólfsson*, bóndi á Glúmsstöðum,
*Sveinn Þorsteinsson*, bóndi á Egilsstöðum,
*Benóní Jakobsson*, vinnumaður á Hrafnkelsstöðum,
*Sigurður Pálsson*, trjesmiður á Bessastöðum,
*Jóakim Jónsson*, vinnumaður á Arnheiðarstöðum,
*V. Guttormsson*, yngispiltur á s. b.,
*H. Árnason*, yngispiltur á s. b.,
*A. Bjarnason*, yngispiltur á s. b.,
*St. Erlendsson*. vinnumaður á s. b.,
*A. Stefánsson*, vinnumaður á s. b.,
*E. Jónsson*, vinnumaður á s. b.,
*H. Jónsson*, bóndi á Bessastaðagerði,
*B. Hallason*, yngispiltur á s. b.,
*E. Einarsson*, vinnumaður á s. b.,

*J. Thórarensen, cand. theol.* á Skriðuklaustri,
*Þ. Jónsson,* yngismaður á Melum.

## Í Áss-sókn í Fellum:

*Benidikt Þórarinsson,* sóknarprestur að Ási,
*Jón Benidiktsson,* yngispiltur á s. b.,
*Oddur Jónsson,* ekkill, búlaus á Skeggjastöðum,
*Bjarni Bjarnason,* bóndi á s. b.,
*Oddur Jónsson,* yngispiltur á s. b.,
*Ólafur Ólafsson,* yngispiltur á s. b.,
*Oddur Ólafsson,* yngispiltur á s. b.,
*Hjörleifur Eiríksson,* fyrirvinna á s. b.,
*Jón Sölfason,* yngispiltur á Hrafnsgerði,
*Einar Sölfason,* yngispiltur á s. b.,
*Eiríkur Sveinsson,* yngismaður á Götu,
*Einar Sveinsson,* yngispiltur á s. b.,
*Vilhjálmur Marteinsson,* bóndi á Ormarsstöðum,
*Jón Einarsson,* yngispiltur á s. b.,
*Árni Jónsson,* yngispiltur á s. b.,
*Jón Sigurðsson,* bóndi á Meðalnesi,
*Jón Þorvarðsson,* bóndi á Hreiðarsstöðum,
*Magnús Sigurðsson,* bóndi á Egilsseli,
*Guðmuudur Magnúss-son,* ekkill búlaus á Hafrafelli,
*Guðmundur Sigurðsson,* bóndi á s. b.,
*Jósep Þórðarson,* vinnupiltur á s. b.,
*Guðmundur Bjarnason,* unglingspiltur á Staffelli,
*Jón Jóhannesarson,* unglingspiltur á Fjallsseli,
*Jón Jónsson,* unglingspiltur á Setbergi,
*Sigfús Einarsson,* bóndi á Skógargerði,
*Sigurður Sigurðsson,* vinnumaður á Hrafnsgerði,
*Jón Árnason,* bóndi á Urriðavatni.

## Í Eyðasókn:

*Bergvín Þorbergsson,* prestur á Eyðum,
*Þorlákur Bergvínsson,* unglingspiltur á s. b.,

*Þorsteinn Þorsteinsson*, vinnumaður á s. b.,
*Jón Stefánsson*, vinnumaður á s. b.,
*Benidikt Bjarnason*, bóndi á Dalhúsum,
*Halldór Jónass-son*, vinnumaður á s. b.,
*Sigvaldi Magnúss-son*, hreppstjóri á Miðhúsum,
*Bjarni Bjarnason*, vinnumaður á s. b.,
*Jón Jónsson*, bóndi á Uppsölum,
*Ólafur Jónsson*, unglingspiltur á s. b.,
*Jón Brynjólfsson*, bóndi á Eyvindará,
*Brynjólfur Jónsson*, unglingspiltur á s. b.,
*Benidikt Jónsson*, bóndi á s. b.,
*Björn Benidiktsson*, unglingspiltur á s. b.,
*Guðni Benidiktsson*, unglingspiltur á s. b.,
*Jón Einarsson*, bóndi á Finnsstöðum,
*Einar Jónsson*, vinnumaður á s. b.,
*Árni Jónsson*, unglingspiltur á s. b.,
*Björn Jónsson*, bóndi á Þrándarstöðum,
*Jón Bjarnarson*, vinnumaður á s. b.,
*Guðni Guðnason*, bóndi á Mýrnesi,
*Ögmundur Bjarnason*, bóndi á s. b.,
*Sigbjörn Bjarnason*, unglingspiltur á s. b.,
*Sigvaldi Gíslason*, unglingspiltur á Breiðavaði,
*Jón Einarsson*, bóndi á Snjóholti,
*Runólfur Jónsson*, unglingspiltur á s. b.,
*Vigfús Vigfúss-son*, bóndi á Tókastöðum,
*Eyjólfur Kristjánsson*, unglingspiltur á s. b.,
*Björn Sigurðsson*, bóndi á Ormsstöðum,
*Kristján Frímann*, bóndi á Gilsárteigi,
*Rafn Rafnsson*, bóndi á Gilsárteigshjáleigu,
*Halldór Rafnsson*, vinnumaður á s. b.,
*Sigfús Rafnsson*, unglingspiltur á s. b.,
*Vilhjálmur Árnason*, bóndi á Hjartastöðum,
*Jón Jónsson*, vinnumaður á s. b.,
*Þorsteinn Ólafsson*, vinnumaður á s. b.,
*Einar Einarsson*, vinnumaður á s. b.,

*Arnoddur Jónsson*, bóndi á Hamragerði,
*Ármann Arnoddsson*, vinnumaður á s. b.,
*Sveinn Einarsson*, unglingspiltur á s. b.,
*Björn Nikuláss-son*, vinnumaður á Gröf,
*Oddur Eiríksson*, bóndi á Fljótsbakka,
*Guðmundur Eiríksson*, bóndi á Fossgerði.

Í Desjarmýrarsókn:

*Stefán Villhjálmsson*, húsmaður á Brunavík,
*Jónas Jónsson*, vinnumaður á Hofsströnd,
*Jón Magnúss-son*, bóndi á Geitavík,
*Árni Þórðarson*, vinnumaður á s. b.

Í Klippstaðasókn:

*Jón Jónsson Austfjörð*, aðstoðarprestur,
*Halldór Sigurðsson*, stúdent, hreppstjóri á Úlfsstöðum,
*Björn Halldórsson*, unglingsmaður á s. b.,
*Eiríkur Halldórsson*, unglingspiltur á s. b.,
*Jón Magnúss-son*, unglingspiltur á Sævarenda.

Auk þessa vitum vjer, að víðar á Austfjörðum hafa bindindisfjelög verið stofnuð; en af því vjer ekkert skýrteini höfum um þau fengið, getum vjer ekkert nákvæmar frá því sagt*).

Í 8. ári Fjölnis, bls. 82, er þess getið, að oss barst sú fregn í fyrra, að í Þingeyjarsýslu hefði fjórir menn stofnað hófsemdarfjelag; en það var oss mishermt; það var fullkomið bindindisfjelag, eins og vjer gátum þá til. Þar stendur líka, að Sigurður Guðnason hreppstjóri á Ljósavatni hafi gengið í þetta fjelag; það er rangt, og á að vera Sigurður Guðnason bóndason á Ljósavatni. Björn stúdent Halldórsson, er var einn í þessu fjelagi, er nú

*) Úr Hofssókn í Vopnafirði höfum vjer fengið nafnaskrá með 47 nöfnum; en vegna athugasemdar, er þar er sett við einn af fjelagsmönnum, þá erum vjer í vafa um, hvort hinir 46 eru bindindismenn, eða ekki nema hófsemdarmenn, og mælumst vjer því mikillega til að fá góðfúslega vísbendingu um það fyrir næsta vor.

kominn í Húsavík, og hefur nú stofnað þar bindindisfjelag; hafa gengið i lög með honum: Þorlákur Gunnar Jónsson, unglingspiltur á Hálsi í Fnjóskadal, og Jónas Kortsson, vinnumaður í Húsavík. Enn fremur hafa í Þingeyjarsýslu þessir menn gjörzt fullkomnir bindindismenn:

## Í Þóroddsstaðasókn:

*Jón Kristjánsson*, prestur á Þóroddsstöðum,
*Jónas Jónass-son*, yngispiltur á Yzta-Felli,
*Jónas Bjarnason*, yngispiltur á Fellsseli,
*Arngrímur Bjarnason*, bóndi á s. b.

## Í Einarsstaðasókn:

*Hálfdán Bjarnason*, bóndi á Öndúlfsstöðum.

Þar að auki höfum vjer frjett, að við Mývatn og í Ljósavatnssókn sjeu bindindisfjelög stofnuð, en vitum ekkert greinilegt um það.

Í Skagafjarðarsýslu er, að því oss er kunnugt, einungis einn maður, að nafni Gísli Guðmundsson, vinnumaður á Mælifelli, orðinn bindindismaður.

Í Húnavatnssýslu hefur tala bindindismanna fjölgað talsvert árið sem leið; en eigi munu þar regluleg fjelög stofnuð. Nöfn þeirra, er í bindindisfjelag hafa gengið í Húnavatnssýslu, frá því í fyrra, eru þessi:

*Pjetur Pjetursson*, bóndi á Miðhópi,
*Ágúst Theódór Blondahl*, lærisveinn á Hvammi í Vatnsdal.
*Gunnlaugur Pjetur Blondahl*, lærisveinn á s. b.,
*Benidikt Gísli Blondahl*, lærisveinn á s. b.,
*Magnús Bjarni Blondahl*, lærisveinn á s. b.,
*Davíð Jóhannesarson*, bóndi á Hofi í Vatnsdal,
*Karl Friðrik Skram*, bóndi á Kornsá í Vatnsdal,
*Lárus Þórarinn Blondahl*, lærisveinn á Hvammi í Vatnsdal,

*Sigurður Gíslason*, ljettadrengur á Eyjólfsstöðum í Vatnsdal,
*Sigurður Sigurðsson*, bóndi á s. b.,
*Stefán Stefánsson*, ljettadrengur á Kornsá í Vatnsdal,
*Þorsteinn Illhugason*, vinnumaður á s. b.,
*Þorkell Þorkelsson*, vinnumaður á Hvammi í Vatnsdal,
*Gísli Árnason*, vinnumaður á Víðidalstungu í Víðidal,
*Jónas Kristjánsson*, vinnupiltur á Kirkjuskarði í Laxárdal,
*Sigurður Guðmundsson*, vinnumaður á Þingeyrum,
*Gísli Magnúss-son*, vinnumaður á Breiðavaði,
*Jónatan Gíslason*, vinnumaður á Björnólfsstöðum,
*Benidikt Pjetursson*, unglingur á s. b.,
*Jósep Gíslason*, trjesmiður á s. b.,
*Björn Eggertsson*, vinnumaður á Steinnesi,
*Illhugi Jónass-son*, bóndason á Gili í Svartárdal,
*Jónas Eyjólfsson*, vinnumaður á s. b.,
*Þorleifur Kljemens Kljemensson*, bóndason í Bólstaðarhlíð í Svartárdal,
*Einar Guðmundsson*, bóndason í Þverárdal,
*Guðmundur Einarsson*, fósturpiltur á s. b.,
*Einar Jónass-son*, fósturpiltur á s. b.,
*Jón Sigfúss-son*, vinnumaður á Skytnadal,
*Hans Natansson*, vinnumaður á Neðstabæ i Refasveit,
*Jakob Benjamínsson*, vinnupiltur á Eyvindarstöðum í Blöndudal.

13. dag desember-mánaðar í vetur var að erfisveizlu eptir Einar bónda Jónsson á Kollafjarðarnesi í Strandasýslu stofnað bindindisfjelag, er skyldi ná yfir Tröllatungusókn og Fellssókn í Kollafirði; eru lög þess fjelags hin sömu og bindindsfjelags Íslendinga í Kaupmannahöfn. Þeir sem þá gengu þegar í fjelagið, eru þessir:

*Halldór Jónsson*, aðstoðarprestur á Tröllatungu,
*Grímur Jónsson*, hreppstjóri á Kirkjubóli,
*Sakarías Jóhannsson*, bóndi á Heydalsá,

*Gisli Eiríksson*, fyrrum hreppstjóri á Þorpum,
*Jón Jónsson*, bóndi á Hvalsá,
*Ásgeir Einarsson*, alþingismaður á Kollafjarðarnesi,
*Einar Gíslason*, bóndi á Litla-Fjarðarhorni,
*Páll Einarsson*, yngispiltur á s. b.,
*Sigurður Sigurðsson*, kirkjueigandi á Felli,
*Jón Jónsson*, bóndi á s. b.,
*Sigurður Sigurðsson*, yngispiltur á s. b.,
*Jón Tómass-son*, bóndi á Stóra-Fjarðarhorni,
*Tómas Jónsson*, bóndi á Broddanesi,
*Guðmundur Sakaríass-son*, vinnumaður á s. b.;

seinna hafa gengið í fjelag þetta,

*Þórður Guðnason*, vinnumaður á Kollafjarðarnesi,
*Magnús Jónsson*, vinnumaður á s. b.,
*Guðmundur Jónsson*, vinnumaður á s. b.,
*Ólafur Gíslason*, bóndi á Litla-Fjarðarhorni;

eru þeir 18 að tölu, og forstjórar þessa fjelags eru þeir Halldór prestur Jónsson og Ásgeir Einarsson alþingismaður*). Auk þeirra áður töldu hafa gengið í bindindisfjelag í Strandasýslu: Torfi Einarsson, hreppstjóri á Kleifum á Selströnd við Steingrímsfjörð og Jakob Atanasíusarson, unglingspiltur á Melum við Hrútafjörð.

Í 8. ári Fjölnis, bls. 81, er þess við getið, að í Ísafjarðarsýslu hafi 1844 níu menn bætzt við tölu bindindismanna, en vjer vissum þá eigi hverjir þeir voru; nú höfum vjer fengið nöfn þeirra, og eru þeir þessir:

*Magnús Jónsson*, hreppstjóri á Eyri við Mjóafjörð,
*Ólafur Helgason*, hreppstjóri í Furufirði,
*Helgi Ólafsson*, bóndi á s. b.,
*Ebenezer Ebenezersson*, vinnumaður á s. b.,
*Vagn Ebenezersson*, bóndi á Dynjanda,
*Jón Ebenezersson*, bóndi á s. b.,

---

*) Um leið stofnsettu forstjórar fjelags þessa og Torfi hreppstjóri Einarsson á Kleifum á Selströnd lestrarfjelag, og eru 16 í því, flestir bindindismenn.

*Ásgrímur Jónsson*, bóndi á Hafrafelli við Skutulsfjörð,
*Guðmundur Árnason*, vinnumaður á Meirihlíð í Bolungarvík,
*Pjetur Sigurðsson*, vinnumaður í Hnífsdal;

en árið sem leið hafa engir við bætzt, og vonum vjer að þeir verði því fleiri, er í bindindisfjelagið ganga þetta árið.

Í bindindisfjelag það, er *Dr. theol.* Pjetur prófastur Pjetursson á Staðastað stofnaði í fyrra í Snæfellsnesssýslu (sjá 8. ár Fjölnis, blss. 81—82), hafa þessir gengið árið sem leið:

*Ólafur Guðmundsson*, kirkjubóndi á Bár í Eyrarsveit,
*Guðmundur Jónsson*, á s. b.,
*Bjarni Bjarnason*, stúdent á Krossnesi,
*Jakob Jakobsson*, hreppstjóri á Inggjaldshóli,
*Jón Jónsson*, hreppstjóri á Hólkoti,
*Gísli Gíslason*, bóndason á Öndverðarnesi.

Í Mýrasýsli hafa síðan í fyrra (sjá 8. ár Fjölnis, bls. 82) þessir menn gengið í bindindisfjelag:

*Guðlaugur Sveinbjarnarson*, prestur á Staðarhrauni, og sex menn aðrir með honum,
*Gísli Þorvaldsson*, bóndi á Ytra-Skógarnesi í Miklaholtshrepp,
*Björn Gíslason*, bóndi á Kaldárbakka í Kolbeinsstaðahrepp,
*Guðmundur Vilhjálmsson*, bóndi á Skjálg í Kolbeinsstaðahrepp,
*Gísli Gíslason*, bóndi á Skiphyl í Krossholtssókn,
*Þorvarður Ólafsson*, yngispiltur á Lundum,
*Jósep Þórðarson* á Hofstöðum.

Á Akranesi í Borgarfjarðarsýslu hafa tveir menn gengið í lög með oss: Halldór Halldórsson, sjálfseignar-bóndi á Grund, og Sigurður Jóhannesarson Lynge á Háteig.

Um fjelag vort hjer í Kaupmannahöfn er það eina að segja, að síðan í fyrra hafa bætzt við í fjelagsskap

vorn: Jón Þórðarson frá Reykhólum í Barðastrandarsýslu, Jónas Guðmundsson frá Þverárdal í Húnavatnssýslu, bókiðnamenn, og Pjetur Hansen, lyfsölupiltur frá Reykjavík. Á hinn bóginn hafa þessir fjelagsbræður vorir farið heim til Íslands: Jón Sigurðsson, *cand. theol.*, Björn Snorrason, Egill Halldórsson, Símon Guðmundsson og Þorgrímur Jónsson, iðnaðarmenn.

Af þessum skýrslum má sjá, að árið sem leið hafa 291 karlmenn, sem vjer vitum, gengið í lög með oss, og þar að auki 10 kvennmenn. Er þetta eigi lítill styrkur bindindismálinu; því vjer gjörum ráð fyrir, að þeir, sem ganga í bindindisfjelög, haldi orð sín og verði bindindismenn. Vjer getum að sönnu ekki borið móti því, að í mörgum brjefum hafa borizt hingað þær frjettir, að hjer og hvar á landinu drekki þeir eptir sem áður, sem ritað hafa nöfn sín á bindindisskrárnar. Vjer höfðum getið þess til, að stöku drykkjumenn, sem mjög væru orðnir undir syndina seldir, kynnu fyrst í stað að brjóta lögin af breiskleika, en fáum mundi verða það optar, enn um sinn. Líka höfðum vjer búizt við, að á Íslandi mundu þeir vera til, eins og annarstaðar, sem hvorki hirða um orð nje eiða. En því hefðum vjer aldrei trúað, ad *margir* af löndum vorum væru þeir níðingar, að takast á hendur, með fullu frelsi, að leggja góðu málefni liðsinni, en bregðast svo undan, þegar minnst vonum varir, og rjúfa tryggðir við fjelaga sína. Þess vegna höldum vjer og, að þessar fregnir geti ekki allar verið áreiðanlegar, enda eru sumar þeirra þannig lagaðar, að ekki er ólíklegt, að þær hafi eitthvað aflagast á leið sinni yfir landið, ekki sízt í munni þeirra, sem hafa illan ýmigust á bindindinni, af því þeir sjá, að eptir því sem hún þróast, eptir því minnka þeir og verða öðrum að athlægi.

Til þess að koma öllu bindindismálinu í sem bezt horf að löguninni til, hyggjum vjer það vera óskaráð:

1. *að allir bindindismenn sjeu í raun og veru eitt fjelag, og hafi allir ein lög.*
2. *að fjelag þetta skiptist aptur í deildir, á þann hátt, að ein deild sje í hverri kirkjusókn, þeirri er nokkur bindindismaður er í* (þó ekki sje nema einn), *og þar að auki ein í skóla og ein í Kaupmannahöfn* — svo að t. a. m. ef 300 kirkjusóknir eru á öllu Íslandi, og einn eða fleiri bindindismenn væru í hverri sókn, þá væri fjelagið alls í 302 deildum (með skóladeildinni og Kaupmannahafnardeildinni). Engin deild á Íslandi næði þá yfir meira, enn kirkjusókn; enda engin yfir minna, nema skóladeildin og sú önnur, sem verður í sömu sókn og hún. *Að fara úr umdæmi einnar deildar* og í umdæmi annarar, *ætti að vera sama og að skipta um deildir.* (Í skóla-deildinni ættu bæði að vera skólapiltar og líka kennararnir, eins og er).
3. *að hver deild hafi sjer forstjóra.* Þar sem ekki er nema einn bindindismaður í sókn, yrði hann að vera í forstjóra stað að því leyti sem á þarf að halda.
4. *að hver forstjóri hafi bók handa þeim að rita í nöfn sín, er verða bindindismenn í hans umdæmi.* Þeirri bók ætti ekki ad glata.
5. *að hver fortjóri sendi hvert ár skýrslu um sína deild til forstjóra bindindisdeildarinnar í Kaupmannahöfn*)* (fyrst

*) sem nú er Brynjólfur Pjetursson, *Fuldmægtig i Rentekammerets danske Secretariat.*

um sinn, þangað til önnur ráðstöfun kynni að verða gjörð). Allar skýrslur ættu að vera dagsettar miðvikudaginn seinastan í vetri. Í skýrslunni þyrfti ekki ad standa annað, enn: *tala bindindismanna í hverri sókn, þegar skýrslan væri dagsett; hvað margir af þeim væru kvennmenn; og (undir skýrslunni) nafn, stjett og heimili deildarstjórans.* Svo öllum geti skilizt sem bezt, hvernig þesskonar skýrsla geti verið löguð, látum vjer prenta þetta sýnishorn:

"Í Baugstaðasókn í Mýra prófastsdæmi eru 16
"í bindindisfjelagi; þar á meðal 4 kvennmenn.

"Ökrum í Baugstaðasókn, miðvikudaginn sein-
"astan í vetri 1847.

*Þormóður Halldórsson,*
hreppstjóri í Tunguhrepp."

Þegar nú þessar deilda-skýrslur kæmu til Kaupmannahafnar, ætti sú deild, sem þar er, að gera úr þeim eina aðal-skýrslu og koma henni síðan á prent.

Hið íslenzka bindindisfjelag í Kaupmannahöfn, miðvikudaginn seinastan í vetri 1846.

---

Prentað hjá *J. D. Kvisti.*